# Jónas Hallgrímsson.

Eftir

Þorstein Gislason.

---

Fyrirlestur, haldinn á Seyðisfirði 21. febr. 1903.

---

„Þið þekkið fold með blíðri brá
og bláum tindi fjalla
og svanahljómi, silúngsá,
og sælu blómi valla,
og bröttum fossi, björtum sjá
og breiðum jökulskalla.
Drjúpi' hana blessun drottins á
um daga heimsins alla.“

SEYÐISFIRÐI.

Prentsmiðja Seyðisfjarðar.

1903.

Að tæpum fimm árum liðnum, 16 nóv. 1907, eru 100 ár liðin síðan besta skáldið sem Ísland hefur átt fæddist, maðurinn sem við minnumst með þessari samkomu hjer í kvöld.

Fyrir nokkrum árum var komið upp með það í stúdentafjelaginu í Reykjavík, að þessa hundrað ára afmælis skyldi minnst á einhvern viðeigandi hátt. Og mönnum kom þar saman um, að reisa Jónasi Hallgrímssyni minnisvarða á Austurvelli í Reykjavík, og snúa sjer með það erindi til allrar íslensku þjóðarinnar, reisa kærasta skáldi hennar minnisvarða fyrir frjáls og almenn samskot. Og nú hefur verslunarmannafjelagið hjer á Seyðisfirði haft þá lofsverðu hugmynd að styðja þetta fyrirtæki með því að efna til skemmtisamkomunnar hjer í kvöld til ágóða fyrir minnisvarðasjóðinn.

Ætlunarverk mitt er hjer aðeins að leiða athygli ykkar stutta stund að Jónasi Hallgrímssyni og skáld-

skap hans. En tíminn leyfir ekki að farið sje ýtarlega út í þetta efni, hvorki að rekja æfiatriði Jónasar, nje að skoða skáldskap hans í ljósi samtíðar hans, nje að rekja þau áhrif sem hann hefur haft á íslenskan skáldskap og bókmenntir. Því þau áhrif eru afarvíðtæk.

---

Jeg tel víst, að flestir, sem hjer eru staddir, hafi lesið æfisögu Jónasar Hallgrímssonar eftir Hannes Hafstein, sem prentuð er framan við síðari útgáfuna af ljóðmælum Jónasar. Jeg skal aðeins rifja hana upp fyrir ykkur í fáum dráttum, því jeg kann fáu nýu þar við að bæta.

Æfi Jónasar er lítt kunn fyr en hann kemur til háskólans í Kaupmannahöfn haustið 1832, 25 ára gamall. Hann bjó þá, eins og títt er, næstu fjögur árin á Garði. Síðari árin bjó þar með honum maður, sem enn er á lífi, Páll Melsted fyrv. sögukennari. Hann var 5 árum ýngri en Jónas. Margar hinar helstu upplýsíngar, sem menn hafa um líf og hagi Jónasar, eru frá Páli Melsted.

Jónas var ekki iðinn námsmaður. Páll segir svo frá, að hann hafi leingst um, þegar hann var heima, legið aftur á bak í sófanum, stundum með bók, sem hann las í, en oft aðgerðalaus. Hann var yfir höfuð

latur maður og hneigður til hóglífis. Hann las þá mikið skáldrit og orti töluvert. Formálskvæði Fjölnis, „Ísland farsælda frón“, er frá stúdentaárum hans á Garði, sömuleiðis veislukvæðið: »Hvað er svo glatt sem góðra vina fundur,« og fleiri af bestu kvæðum hans. Jónas las fyrst lögfræði, en síðan náttúruvísindi. En embættispróf tók hann aldrei.

Þegar hann er búinn með Garð er hann á besta aldri, um þrítugt. Honum er svo lýst af samtíðarmönnum hans: „Hann var vel meðalmaður á hæð og þótti alment laglegur maður. Hann var þrekinn og rekinn saman um herðar, höfuðið stórt og jarpt hár niðurkembt kríngum mikið, afturdregið enni, augun móleit, stór og fjörug undir vel hvelfdum, dökkum brúnum; nefið beint en digurt, munnurinn fríður, en kjálkarnir breiðir og aðeins lítið skegg undir þeim. Hann var kátur og fyndinn í tali við kunníngja sína og vel skarpur, en dulur var hann og ljet lítt uppi tilfinníngar sínar. Við þá sem hann þekkti lítið var hann fámáll og gat þeim því þótt hann stirður og ómannblendinn og jafnvel stoltur, enda vildi hann ekki láta troða sjer um tær. Hann var blóðríkur og því hneigður til nautna, feitlaginn og hætti til hóglífis. En þegar hann vildi vinna, gat hann verið vel duglegur.“*)

*) Æfisaga Jónasar eftir H. Hafstein.

Eftir að Jónas flutti út af Garði, bjó hann með Konráði Gíslasyni, sem laungu síðar varð prófessor við háskólann. Sögurnar segja að þeir hafi á þeim árum ekki lifað neinu fyrirmyndarlífi, sem kallað er. Þeir Jónas þýddu þá Mynsters hugleiðíngar á íslensku. Og það er haft eftir presti einum, sem þá var samtímis þeim í Kaupmannahöfn, að hann hafi sagt þegar bókin kom út, að ekki skildi hann hvernig það rit hefði getað fæðst í annari eins „svínastíu," þ. e. einsog bústað þeirra Jónasar og Konráðs.

Skömmu síðar fær Jónas styrk hjá stjórninni til þess að ferðast um Ísland í náttúrufræðisrannsóknum. Á því ferðalagi er hann í fjögur sumur. A vetrum dvaldi hann þá ýmist í Kaupmannahöfn eða Reykjavík. Frá þeim árum eru til eftir hann ýmsar ritgerðir náttúrufræðislegs efnis. Á ferðum sínum um landið orti hann einnig mikið.

Það virðist nú svo sem það hafi hlotið að vera allskemtileg æfi sem Jónas átti meðan hann var í þessum ferðum. En ýmislegt bar samt til þess að honum leið ekki vel. Hann var stöðugt í fjárþraung og átti á þann hátt örðugt uppdráttar. Á þessu ferðalagi bilaði einnig heilsa hans. Einn veturinn lá hann leingi sjúkur í Reykjavík. Hann lá á ferðunum oft úti, eða í tjaldi, og fór ekki úr fötum vikum saman. Þar á ofan drakk hann þá mikið.

Jónas var ekki Íslendíngum eins kær þá og hann er nú orðinn. Það eru til sögur um það, að honnm var ekki sem best tekið, og fólki var ekki um hann. Á prestssetri einu hjer Austanlands er sagt frá því, að Jónas kom þar og ljet tjalda í túnfæti. Prestur hafði þekkt hann og vildi bjóða honum heim, en fjekk því ekki ráðið fyrir konunni. Hún hafði heyrt ýmislegt um Jónas, sem olli því, að hún vildi ekki hafa hann í bæinn.

Þá höfðu einnig margir horn í síðu Jónasar sem útgefanda Fjölnis. Fjölnir kom að mörgu leyti í bága við ríkjandi skoðanir. Meðal annars hafði Jónas gert þar harða árás á Sigurð Breiðfjörð, sem um það leyti var mesta uppáhaldsskáld þjóðarinnar. Sömuleiðis hafði hann ritað þar náttúrufræðisritgerð um eðli og uppruna jarðarinnar og þótti hún koma í bága við ritnínguna. En á slíku var mjög hart tekið í þá daga.

Síðast dvaldi Jónas árlángt í Sórey í Danmörk og leið honum þar vel. Hann var þá að raða niður verkum sínum frá rannsóknarferðunum. Öll þessi ár hafði hann með áhuga tekið þátt í sjálfstjórnar- og jafnrjettis-kröfum Íslendínga. Á þeim árum er verið að endurreisa alþíngi og allir ýngri menn meðal Íslendínga eru þá hrifnir af frelsishugsjón-

um þeirra tíma. En á þetta verður nánar minnst síðar.

Þetta eru helstu drættirnir í æfisögu Jónasar Hallgrímssonar. Hann andaðist í Kaupmannahöfn ekki fullra 38 ára að aldri, 26. maí 1845. Hann kom seint heim til sín eitt kvöld, hrasaði í stiganum og fótbrotnaði, en hjelt áfram upp samt sem áður og lagðist fyrir án þess að gera nokkrum aðvart um að hann hefði meiðst. Úr þessu dó hann nokkrum dögum síðar.

---

En eftir þennan mann, sem dó svo slysalega á besta aldri, liggur fegurra æfistarf en flesta aðra íslenska menn. Þetta æfistarf er skáldskapur hans. Hann deyr á fertugs aldri, en lætur eftir sig ódauðlegt nafn, svo leingi sem íslensk túnga lifir.

Hann hefur umskapað málið okkar, gert það fegurra, hreinna, tignarlegra og mýkra en áður.

Hann hefur umskapað kveðskapinn okkar, gert hann formfegurri, þýðari, smekklegri en áður.

Hann er eina íslenska skáldið, sem orðið hefur foríngi heils flokks af skáldum, brautryðjandi nýrrar skáldskapar- og bókmennta-stefnu.

Hann hefur súngið inn í íslensku þjóðina ást til

landsins og trú á framtíð þess, fremst og best allra íslenskra skálda.

Hann hefur fyrstur vakið tilfinnínguna hjá Íslendíngum fyrir fegurð landsins, fegurð íslensku náttúrunnar, sýnt okkur fyrstur margt af því sem við nú unnum þar mest. Síðan Jónas lýsti fyrir okkur landinu og náttúrufegurð þess lítum við að miklu leyti á það með hans augum.

Hann útmálar fyrstur fyrir okkur á íslensku fegurð fjallahlíðanna, blómgresisbrekknanna og sumargróðans, túlkar fyrst nið fossins og lækjarbununnar.

Hann hefur fyrstur í íslenskum kvæðum opnað fyrir okkur bók náttúrunnar til þess að kenna okkur að skilja þar fegurðina.

Hann hefur í fáum orðum sagt gert meir til þess að vekja fegurðartilfinning og smekk íslensku þjóðarinnar en nokkur einn maður annar.

Og þetta liggur ekki aðeins í því, að hann hefur sjálfur kveðið mörg tilfinníngaríkustu og hljómþýðustu kvæðin, sem við enn eigum, margar fallegustu náttúrulýsíngarnar, heldur einnig í því, að hann hefur orðið kennari allra bestu skálda okkar sem ýngri eru en hann. Hann varð meistarinn, sem allaf síðan var bent á og miðað við sem fyrirmynd. Þessvegna eru áhrif hans svo víðtæk í okkar smáu bókmenntum.

En það er hvergi þakklátt verk að rísa á móti ríkjandi skoðunum og ríkjandi smekk. Menn eins og Jónas Hallgrímsson eru aldrei rjett metnir fyr en eftir lángan tíma, á gamals aldri, ef þeir ná honum, eða þá eftir dauðann. Og Jónas uppskar ekkert fyrir starf sitt í lifanda lífi, einga viðurkenníngu, hvorki lof nje þökk. Hann sá ekki sjálfur áhrifin af verkum sínum. Hann lifði það ekki.

Hann deyr frá samferðamannahópnum á fjallsbrúninni til fyrirheitna landsins, framtíðarlandsins sem þeir vildu vinna, Íslands, eins og þeir hugsuðu sjer að það ætti að verða og gæti orðið.

En hann hefur án efa sjeð það í fegurra ljósi en allir hinir, sjeð þar margt, sem einginn annar sá.

Hann er yfir höfuð glæsilegasti maðurinn í öllum hópnum.

En hann liggur þarna eftir með brotinn fótinn og horfir að síðustu fram í tímann með sjúklíngsins augum. Þó hann dæi úngur var hann upp á síðkastið orðinn þúnglyndur og lífsleiður. Það sýna mörg síðustu kvæðin hans, t. d.:

Einginn grætur Íslendíng
einan sjer og dáinn.
Þegar allt er komið í kríng
kyssir torfa náinn.

Eða:

Svo rís um aldir árið hvert um sig,
eilífðar lítið blóm, í skini hreinu;
mjer er það svo sem ekki neitt í neinu,
því tíminn vill ei teingja sig við mig.

---

Auðvitað er Jónas ekki einn síns liðs. Það er vor í loftinu á æskuárum Jónasar, eins og Jón Ólafsson lýsir svo fagurlega í ræðu, sem hann hjelt um Jónas í Rvík fyrir tveim árum og prentaður er í Nýu Öldinni. Margir af jafnöldrum Jónasar eru snortnir af sömu hugsjónum og hann. En það er Jónas sem er vorboði þessa vors; það er hann sem sýngur það útyfir fjöll og dali. Allir þekkja nöfn samverkamanna hans við „Fjölni," Tómasar Sæmundssonar, Konráðs Gíslasonar, Brynjólfs Pjeturssonar. Jón Sigurðsson var litlu ýngri en Jónas. Og það er annað skáld uppi jafnhliða Jónasi, sem með rjettu er talinn brautryðjandi nýrri bókmennta okkar ásamt honum. Það er Bjarni Thorarensen. Og enn má nefna Sveinbjörn Egilsson, kennara Jónasar, sem hafði mjög mikil áhrif á hann í æsku.

En samt sem áður er það Jónas sem verður flokksforínginn í skáldskapnum og bókmenntunum. Það

er hann sem yrkir og ritar með því markmiði að brjóta í bág við hið eldra. Það er hann sem ræðst á eldri kveðskaparstefnuna með þeim hvassasta og lángáhrifamesta ritdómi sem enn hefur verið skrifaður á íslensku. Og það er Jónas sem allir ýngri mennirnir stæla. Tónar þeir sem hann hefur fyrstur slegið hljóma gegnum íslensk ljóð allt fram á þann dag í dag.

Það er hann sem skrifar á stúdentaárum sínum meðan hann býr á Garði í Khöfn, 28 ára gamall, formálann fyrir Fjölni, stefnuskrá ritsins, kvæðið „Ísland farsælda frón.“

Beri menn það kvæði saman við allt annað sem þá er til kveðið á íslensku, og menn hljóta að finna, að það er öldúngis einstakt á þeim tíma, ólíkt öllu öðru sem áður er kveðið.

Það er ekki einasta formáli og stefnuskrá Fjölnis. Það er formáli og stefnuskrá heils tímabils í framfarasögu þjóðarinnar. Það er formáli nýrri bókmennta okkar og stefnuskrá stjórnmálabaráttunnar hjá flokknum sem vaknaði upp þetta vortímabil 19. aldarinnar.

En Jónas orti ekki mikið á þessum árum. Þremur árum síðar flytur Fjölnir kvæðið „Gunnarshólma,“ náttúrulýsíngu, sem átti eingan sinn líka þá í íslenskum bókmenntum og enn er miðað við sem fyrir-

mynd. Ari síðar yrkir hann: „Þú stóðst á tindi Heklu hám.“

Menn verða að líta á þessi kvæði Jónasar o. fl. með samanburði á þeim og öðrum íslenskum kveðskap á þeim tímum til þess að skilja til fulls, hvað Jónas var.

Málskrúðið, smekkvísin, fegurðartilfinníngin – er þar svo yfirgnæfandi.

Það er ekki ljótt nje ósmekklegt orð til í ritum Jónasar Hallgrímssonar þótt leitað væri spjaldanna á milli.

Hann myndar ný orð og orðasambönd til þess að skreyta málið, eða hann sækir orð aftur í fornaldarkveðskapinn og beitir þeim þannig, að einginn hafði áður gert eins.

Í þessum skrautlega orðbúníngi leiðir hann svo fram nýar myndir af íslensku náttúrunni, sýnir okkur fegurð hennar þar sem áður hafði verið geingið þegjandi framhjá henni.

Eggert Ólafsson, fyrirmynd Jónasar, orti um náttúruna til þess að kenna mönnum að nota hana sjer til gagns; hann mat blómin og jurtirnar eftir nytseminni. Hann sjer fegurð náttúrunnar aðeins gegnum gagnseminnar gleraugu. Hann er í kvæðum sínum að kenna mönnum hver grös sjeu nytsöm til matar, hver til lækninga o. s. frv.

Og Eggert er eina skáldið okkar á undan Jónasi, sem sjerstaklega hefur gefið sig við að lýsa íslenskri náttúru. Jón Þorláksson, sem er höfuðskáldið um aldamótin 1800, hefur ekkert auga fyrir neinu af því tægi. Bjarna verður náttúran aldrei að aðalyrkisefni. Og náttúrulýsíngar í kvæðum annara samtímisskálda Jónasar eru í samanburði við kvæði hans eins og skrælnuð og visin fokstrá hjá lifandi gróðri, eins og litlausir burknar hjá glitrandi blómum.

En breytíngin frá Eggerti til Jónasar er sú, að í náttúrulýsíngum Jónasar er fegurðin sett í hásætið í stað nytseminnar. Hjá Jónasi er alstaðar lofgjörðin um fegurð landsins tvinnuð saman við föðurlandsástina. Því Jónas var heitur ættjarðarvinur eins og allir vormenn 19. aldarinnar.

Þeir elskuðu fornöld landsins sem fyrirmynd framtíðarinnar, eins og kemur svo ljóst fram hjá Jónasi í formálskvæði Fjölnis, „Ísland farsælda frón“.

Og hlutverk þeirra varð því að predika: Landið er enn eins og það var, ef rjett er með það farið. Það þurfti að vekja þjóðina og sýna henni allt sem þeir sáu í hyllíngum framundan sjer. Og Tómas fer að kenna mönnum, að það sje hægt að búa hjer eins og í öðrum löndum. Jónasar hlutverk varð að sýngja um, hve landið væri fallegt – fallegra en öll önnur lönd undir sólinni hefði hann að líkindum sagt.

Jónas er óskasonur Íslands. Einginn hefur kveðið um kjör þess af ríkari tilfinningu en hann. Inndælli Íslandsvísa er ekki til en þessi: „Þið þekkið fold með blíðri brá“ – með niðurlaginu:

»drjúpi hana blessun drottins á
um daga heimsins alla.“

Og Jónas trúir á framtíð landsins. Um hana kveður hann:

„Veit þá eingi að eyjan hvíta
á sjer enn vor, ef fólkið þorir
guði að treysta, hlekki að hrista,
hlýða rjettu, góðs að bíða.
Fagur er dalur og fyllist skógi
og frjálsir menn þegar aldir renna.
Skáldið hnígur og margir í moldu
með honum búa, en þessu trúið.“

Og það er rík tilfinning í þessu erindi í kvæðinu, sem hann kveður eftir síra Tómas Sæmundsson, vin sinn:

„En þá er fósturfoldin hans.
Hví vill drottinn dýrðarríkur
duftinu varpi jafnskjótt slíkur
andi hennar mesta manns.

Hví vill drottinn þola það,
landið svifta svo og reyna,
svifta það einmitt þessum eina
er svo margra stóð í stað.“

Jónas geingur hjer í rjettlætisdóm við drottinn út af meðferð hans á föðurlandinu.

Ein af fegurstu vonum Íslendínga er þá að fá þíng í landinu. Það er fallegt kvæðið sem Jónas kveður þegar alþíng er endurreist t. d.

„Traustir skulu hornsteinar
hárra sala,
í kyli skal kjörviður.
Bóndi er bústólpi –
bú er landstólpi –
því skal hann virður vel.«

Og þíngstjórnarhugmyndin, sem þá er alstaðar í bernsku, er þar vel sett fram í erindinu:

„Bera bý
bagga skoplítinn
hvert að húsum heim.
En þaðan koma ljós
hin logaskæru
á altari hins göfga guðs.“

Kvæðið endar svona:

„Sól skín á tinda,
sofið hafa leingi
dróttir og dvalið
draumþíngum á.
Vaki vaskir menn,
til vinnu kveður
giftusamur konúngur
góða þegna.

---

Allir hafið þið sjeð, hvernig Ísland er leitt fram á þjóðhátíðarspjaldinu okkar eftir Ben. Gröndal. Það er konumynd með háan, hvítan fald og bókfell í hendi. Þessi hugmynd er svo almenn nú, að hvert barn hefur tileinkað sjer hana. Það er Fjallkonan. Þessi hugmynd var ekki ný 1874. Hún geingur í gegnum öll föðurlandskvæði skáldanna okkar á öldinni sem leið. Upptök þessarar hugmyndar hafa aldrei veriði rakin og því ætla jeg að gera hjer dálítinn útúrtúr til að minnast á hana. Jónas Hallgrímsson á ekki hugmyndina. Þjóðsaungurinn okkar, „Eldgamla Ísafold“ er ortur, að mig minnir, áður en hann fæddist, af liðlega tvítugum stúdent í Kaupmannahöfn, Bjarna Thorarensen. Með þessu kvæði

hefur hugmyndin einkum breiðst út og fest rætur. En Bjarni á hana ekki heldur upphaflega. Eggert Ólafsson er faðir hennar. Eftir hann er til lángt kvæði, sem heitir „Ísland,“ og það mun óhætt að fullyrða, að þar kemur þessi hugmynd fyrst fram. Ísland er látið koma þar fram sem kona og segja æfisögu sína. Og þar er þetta erindi, þar sem konan minnist á ýngri ár sín, þ. e. fornöld Íslands:

„Þá var jeg best í blóma
búin í gull og skart;
sat jeg fríð með sóma,
sólarbirtan snart
faldinn hvíta fagurlig,
klæðin græn og kristallsbönd
klæddu og prýddu mig.“

Þetta er upphafið, fyrstu drættirnir til Fjallkonumyndarinnar með jökulfaldinn, grænu klæðin og kristallsböndin, þ. e. árnar og lækina. En myndin verður skrautlegri í þjóðsaungnum okkar hjá Bjarna Thorarensen:

„Öðruvís er að sjá
á þjer hvítfaldinn há
heiðhiminn við.

Eða þær krystallsár
á hverjar sólin gljár
og heiðar himinblár,
hájöklarið.

Jónas Hallgrímsson hefur líka tekið að sjer þessa hugmynd. Drápan, sem hann yrkir eftir Magnús Stephensen, byrjar á þessum tveimur gullfallegu erindum:

Úti sat und hvítum
alda faldi
fjallkonan snjalla
fögur ofar lög;
sá hún um bláan
boga loga
ljósin öll er lýsa
leið um næturskeið.

Sofinn var þá fífill
fagur í haga,
mús undir mosa,
már á báru;
blæju yfir bæ
búanda lúins
dimmra drauma
dró nótt úr sjó.

Þessi fjallkonuhugmynd verður svo föst í sessi, að hvert eitt og einasta íslenskt skáld fæst meir og minna við að fullkomna hana allt fram undir lok 19. aldar. Stórkostlegust er hún orðin hjá síra Matthíasi í „Nýársósk fjallkonunnar“:

. . . Sjáið minn fald, það er fjallanna tindar
og feldurinn hæðir og dalir og rindar,
og höfuðdjásnið er himinsins sól
sem hríslast í kríngum minn segulstól,
og beltið er fossandi fljót og gil
með frelsis ljómandi krystals-spil.
Og hrein stend jeg enn í því skæra skrúði,
sem skaparinn gaf sinni jökulbrúði:
Hann fjekk mjer sjálfur minn skírleiksskjöld,
hann skírði mig sjálfur, þá hófst mín öld.
Hann sagði: Ver jafnan hrein og há
með heiðan faldinn við loftin blá.
Þó eldur og stormur og ís þjer ami
þinn árborni svipur sje jafnan hinn sami.
Þá las hann mjer forlög mín stríð og stór,
þá stundu mín fjöll og þá dundi minn sjór.
Og enn, ef mig dreymir þau örlagaorðin,
af ofboði skelf jeg svo titrar storðin.
o. s. frv.

Jeg sagði að Jónas Hallgrímsson mundi hafa sagt um Ísland, að það væri fallegra en öll önnur lönd undir sólunni. Eða er það ekki merkilegt um hann, náttúrufræðínginn og náttúruskáldið, mann, sem elur mikinn hluta aldurs síns erlendis, í Danmörk, að það er ekki til eftir hann eitt einasta kvæði, sem lýsir danskri náttúrufegurð. Jeg held jeg megi fullyrða, að slíkt hittist vart í kvæðum hans nema lítillega í skilnaðarkvæði Íslendínga til síra Þorgeirs Guðmundssonar, sem varð prestur úti á Sjálandi: „Nú er vetur úr bæ," o, s. frv. Eitt erindið er svona:

„Þegar lauf skrýðir björk,
þegar ljósgul um mörk
rennur lifandi kornstángamóða,
þá skal riðið á stað,
þá skal þeyst heim í hlað
til hans Þorgeirs í lundinum góða."

Þegar kornakrarnir eru orðnir hávaxnir legst grasið, eða hallast á hliðina fyrir vindinum í stórum reynum, og þær líta út til að sjá eingu líkara en að þær ylti fram á í bugðum og með bylgjukasti. Dönsku skáldi gæti tæplega dottið í hug þessi samlíking, af því að þetta er ekki líkt ám eða lækjum þar á flatlendinu. En það líkist íslensku ánni. Og myndin er skýr og lifandi. Eins verður hann að skíra bústað hans Þor-

geirs um og gefa honum íslenskt nafn: Glóundur og Grashagi eru prestaköllin.

Jónas býr heilt ár úti í Sórey á Sjálandi og hefur þar stöðugt fyrir augum fagra beykiskóga, akra og eingi. En hann yrkir ekki um þetta. Þar kveður hann: „Fífilbrekka gróin grund, grösug hlíð með berjalautum“, án efa eitthvert hið yndislegasta sveitakvæði sem til er.

Hann kveður þar ekki um næturgalasaunginn í dönsku skógunum, ekki eitt erindi. En hann kveður þar úti um íslenska grátitlínginn sem kúrir í stormviðrinu freðinn niður við mosaþúfuna. Hann yrkir þar um rjúpuna, sem flýr inn um gluggann undan valnum. Hann yrkir þar um gimbilinn, sem „þembir gúlinn“ heima í haganum á Íslandi og hvernig hann brýst úr hríðinni „harður inn á garðann“, o s. frv. Hugurinn er alltaf heima.

Íslenskara skáld er ekki til en Jónas Hallgrímsson, og betri Íslendíngur hefur aldrei fæðst.

---

Þeir Bjarni Thorarensen og Jónas eru mennirnir sem almennt er talið að beri 19. aldar bókmenntir okkar á herðum sjer. Og þeir hafa oft verið bornir saman og vegnir hvor á móti öðrum.

En látum þá hvorn um sig eiga sinn skerf af

heiðrinum. Þeir leiðast eins og bræður á undan skáldaflokki aldarinnar. Annars hrós er ekki last hins.

En þeir eru ólíkir bræður. Æfikjör þeirra eru ólík og skáldskapur þeirra ólíkur. Bjarni er rúmum 20 árum eldri en Jónas. Hann er orðinn embættismaður, í einu af æðstu embættum landsins, þegar sá flokkur úngra manna sem Jónas heyrir til vekur þá hreyfíngu sem síðan hefur orðið svo áhrifamikil í þjóðlífi okkar. En Bjarni var þeim vinveittur og skrifaði í tímarit þeirra, Fjölni. Þeir þekktust lítið, Bjarni og Jónas, en þær sögur sem fara af viðkynníng þeirra beri vott um vinfeingi. Bjarni sagði að eftir sig látinn yrði Jónas eina þjóðskáld Íslendínga. Og rjett áður en Bjarni dó hafði hann boðið Jónasi að dvelja hjá sjer vetrarlángt. Það var á meðan Jónas var í náttúrurannsóknarferðunum og ætlaði Jónas að þiggja það. En á leiðinni norður frjetti hann lát Bjarna. Jónas hefur ort eftir Bjarna falleg eftirmæli.

Bjarni andaðist í öðru æðsta embætti landsins. Ytri lífskjör hans eru svo glæsileg sem framast má verða hjer á landi. Hann er orðinn embættismaður á sama aldri og Jónas er á þegar hann verður stúdent. Og Bjarni stígur óvenjulega fljótt uppeftir „hefðartindinum,“ sem hann kveður um. Jónas á aftur á móti í stöðugri baráttu fyrir tilverunni og verður að reyna flest af því sem fjeleysinu fylgir.

En skáldskapur þeirra ber eingan vott um þessi mismunandi lífskjör. Bjarni sýnir yfir höfuð meir dekkri hlið lífsins, Jónas meir sólskinshliðina. Bjarni er vetrarins skáld; Jónas sumarsins. Rómur Bjarna er stirður og kaldranalegur eins og þorrafrostbylur á norðan; rödd Jónasar er þýð eins og sunnanblær í fjallahlíð.

Þeir einkenna sig best hvor með sitt málverkið í hendinni, Bjarni með vetrarlýsínguna: „Hver ríður svo geyst á gullinbrúvu“ o. s. frv., og Jónas með sumardalslýsínguna: „Fífilbrekka gróin grund.“ Bjarni dáist mest að vetrarskrautinu, ísbreiðunum, stjörnunum og norðurljósunum; Jónas mest að sumargróðrinum, grænum hlíðum, blómum og blíðviðri. Bjarni segir:

„Skulum vjer rækja ríkar
rós en norðurljósin?“

Blómin kallar hann „börn moldar og röðuls“ og þykir lítið í þau varið hjá himinskrauti vetrarins. Hann kallar veturinn „aflbrunn alheims og ótta munaðar“ og lætur hann koma ríðandi frá heimum miðnáttar með norðurljósabrúsk á hjálminum, á snjólitum hesti með hjelugt fax. Hann segir það rángt að veturinn flýi fyrir vorinu; hann færist aðeins nær himni:

„. . . Vor skríður undir,
vetrar er yfir
bringa breið
um bláloft gnæfandi.“

Jónas segir:

„Vorblómin, sem þú vekur öll
vonfögur nú um dali og fjöll,
hafalda blá og himinskin
hafa mig leingi átt að vin“ . . . .

Og:

„Smávinir fagrir, foldarskart,
fífill í haga, rauð og blá
brekkusóley, við mættum margt
muna hvert öðru að segja frá.“

Bjarni flýgur með Sigrúnu innanum norðurljósin og þau hvílast á snjóskýjabólstrunum. Jónas greiðir unnustu sinni lokka við Galtará og skilnað þeirra „gráta í lautu góðir blómálfar.“

Þeir Bjarni og Jónas eru að flestu leyti eins ólíkir og vetur og sumar. Þeir eru hvor sín hliðin á íslenskri náttúru.

„Skulum vjer rækja ríkar
rós eða norðurljósin?“

Það er spurníng sem þeir svara hvor á sinn hátt. En Jónas hefur, eins og áður er sagt, haft margfalt meiri áhrif á íslenskan skáldskap en Bjarni. Jónas hefur stigið ótrúlega lángt fram úr samtíð sinni. Mörg kvæði Bjarna hafa í augum nútíðarmanna á sjer fortíðarblæ; það eru á þeim ýms merki, sem nútíðarsmekkurinn ekki kannast við, þó hugmyndir hans gnæfi uppúr eins og jökultoppar. Öll kvæði Jónasar gætu orð fyrir orð verið ort nú í ár. Tíminn hefur eingum skugga slegið á þau enn; hugsunarhátturinn er að eingu leyti vaxinn upp úr þeim.

---

Eins og áður er getið kom kvæði Jónasar „Ísland“ fyrst út sem formáli fyrir „Fjölni“. En það lítur ekki út fyrir að það hafi vakið jafnmikla eftirtekt þá og við mætti búast. Í þeim ritdómum sem jeg hef sjeð um þetta ár Fjölnis er varla minnst á kvæðið, og ekki með einu orði til lofs, eða aðdáunar. Þegar Gunnarshólmi kemur út, þrem árum síðar, ritar síra Tómas, sem þá var orðinn prestur á Breiðabólsstað í Fljótshlíð samútgefendum sínum í Khöfn ritdóm um þann árgáng ritsins. Um kvæðið segir hann þar og snýr sjer að Jónasi: Um kvæðið þitt segi jeg ekkert, því jeg hef ekki lesið það. Þetta sýnist ekki benda á mikla trú á skáldskap Jónasar, jafnvel hjá kunníngjum hans og vinum.

En áhrifin komu síðar fram.

Böndin voru brotin af kveðskapnum. Úngu skáldin, sem koma fram um miðja öldina sem leíð, rjett eftir dauða Jónasar, þau eru öll lærisveinar hans: Jón Thoroddsen, Gísli Brynjólfsson, Ben. Gröndal, Steingr. Thorsteinson, Páll Ólafsson. Og það skáldið frá þessum tímum sem reyndar er honum ólíkast, Gr. Thomsen, yrkir eftir hann hin gullfallegu eftirmæli: „Þú sem áður foldar fljóð“ o. s. frv.

Bókmenntafjelagið safnaði kvæðum Jónasar saman eftir dauða hans og gaf þau út. Og hann varð á tímabilinu sem þar fer á eftir uppáhaldsskáld þjóðar sinnar og átrúnaðargoð, eins og hann átti skilið. Kvæði hans voru súngin og lærð um allt land, súngin í hverju samsæti og hverri veislu landshornanna á milli. Útlendíngur, sem þá fer hjer um og minnist á þetta, segir, að Jónas sje einstakt skáld að því, að ekki muni vera til einn einasti maður á ættlandi hans, sem ekki kunni eitthvað af kvæðum eftír hann.

Rímnakveðskapurinn, sem Jónas hafði barist á móti, hverfur úr sögunni smátt og smátt. Smekkur þjóðarinnar hreinsaðist og breyttist. Íslenskan kom fram í nýuw og fegri búníngi en áður.

„Ástkæra, ylhýra málið
og allri rödd fegra. . . .

Móðurmálið mitt góða,
hið mjúka og ríka."

Þessar setníngar úr kvæði Jónasar verða einkunnarorð fyrir starfi margra manna, sem setja sjer það markmið, að fegra og fullkomna íslenskuna. Og það var auðbent á fyrirmyndina: Kvæði Jónasar, því, einsog Gr. Th. segir í eftirmælunum eftir hann:

„Úr fjörugu máli fegri sprett
fjekk ei neinn af sveinum.
Hjá þjer bæði lipurt og ljett
lá það á kostum hreinum.

Þú gast látið lækjanið
í ljóðum þínum heyra,
sjávarrót og svanaklið,
sanda bárur keyra.

Gastu' í brag við björgin foss
bráðum látið sinnast,
og hendingarnar heitum koss
hverja við aðra minnast.

Náttúrunnar numdir mál,
numdir túngur fjalla,
svo að gastu stein og stál
í stuðla látið falla.

Íslands varstu óskabarn,
úr þess faðmi tekinn
og út á lífsins eyðihjarn
örlagasvipum rekinn.

Lángt frá þinna feðra fold,
fóstru þinna ljóða
ertu nú lagður lágt í mold
listaskáldið góða.«

---

Í Assistents-kirkjugarðinum í Khöfn er skrautlaust leiði, sem íslenskir stúdentar gánga stundum til tveir og tveir, eða í smáhópum, og benda fjelögum sínum, sem nýkomnir eru að heiman, á það. Það er leiði Jónasar Hallgrímssonar. Hann er ekki grafinn í íslenskri mold.

Æfi hans var stutt, og það er ekki eins bjart yfir henni eins og við mundum nú óska að verið hefði. En hans verður leingi minnst. Og minníng hans er skínandi björt.

Við skulum líta aftur í tímann og hugsa okkur að við sjáum þá ríða fram í fylkíngu, mennina, sem hófu frelsisbaráttu Íslands á öndverðri síðastl. öld, mennina, sem urðu foríngjar þjóðarinnar fram á nýar brautir. Og við sjáum hann þar í fremstu röð á

snjóhvítum, gammvökrum fáki, glæsilegasta og fallegasta manninn í allri fylkíngunni.

Við skulum alltaf geyma minníngu Jónasar Hallgrímssonar í heiðri, því það á hann skilið.

Og við skulum varðveita þau áhrif sem hann hefur haft á hugsunarlíf Íslendínga sem best við getum. Því þau áhrif eru góð og fögur.